# Guds Barna
# Bordskick,

þad er

stutt Undirvísan

um

réttskickada

# Altaris-gaungu,

edur

hvad kristinn madur á ad gjöra, ádur, á medan og eptir þad hann medtekur Kvøldmáltídar Sacramentid.

---

Samantekid og útgefid af
Haldóri Finnssyni,
fyrrum Prófasti í Mýra-sýslu og nú Sóknar-presti til Hýtardals.



---

Leirárgørdum vid Leirá, 1798.
Prentad af Bókþryckjara G. J. Schagfjord.

# Til Lesarans.

Svosem ecki má varast nema viti, eptir því, sem ordsháttúrinn hljódar; svo er þad tvennt, sem útheimtist af serhverjum kristnum manni, sem er: ad vita og gjøra, og þetta hlýtur hvørt ødru ad fylgja, því eins og þad er øldúngis ómissandi ad vita edur þeckja Gud, hans vilja, og sinn sáluhjálpar veg, þar mádur kann ei án þess ad þjóna Gudi eda dýrka hann rettilega, og án þess hefir hann enga sanna trú; eins naudsynlegt er líka ad gjøra eda láta allt sitt framferdi og øll sín verk vera þeckíngunni samqvæm, og gjøra svo Guds vilja, en varast allt þad, sem honum má vera mótstædilegt, annars gagnar þeckíngin eckert, og þenar ei til annars, enn viuna til því meiri refsíngar, Lúc. 12.

Þar nú þetta hvørttveggja er svo øldúngis ómissandi, og allur kristinndómur í því innifalinn, hefi eg leitast vid ad leida einfaldlega fyrir sjónir á eptirfylgjandi blødum, verduglega brúkun Altarisins Sacramentis, hvar til mig hafa medal annara orsaka uppȟvatt þessar tvær eptirfylgjandi: 1.) hafa margir óskad ad þeir mættu eignast, og qvartad yfir ad þeir ei gjætu fengid þad qver, sem høndli um rett-

 stick-

ſkickadann undirbúníng til Altarisins Sacramentis, og þeſs verduglega brúkun. Til ad fullnægja þeſſari þeirra óſk, og bæta þennann breſt, hafdi Próſaſturinn ſál. Síra Vigfús Erlendsſon á Setbergi tekid ſer fyrir hendur ad útleggja á Islendſku þá bók, ſem Dr. Jóh. Philipp. Freſenius hefir gjørt um þetta efni, í þeirri meiníngu, ad hún kynni ſídan prentud verda, almenníngi til nota. Þeſſari ſinni fyrirtekt hafdi hann og, ádur enn hann fyrir tímanlegann dauda burtkallaðiſt, ad því leiti aflokid, ad hann var búinn ad leggja bókina út til enda; en honum endtiſt ei tíd til ad yfirſkoda edur lagfæra ſvo útleggínguna, eins og hann hefir viljad hún ſkyldi verda, ef á prent útgeugi, enn ſídur til ad koma henni á frekara framfæri. Þeſs vegna var hún mer ſkømmu eptir hans afgáng, afhendt med þeim tilmælum, ad eg vildi tilſjá, ad ſá áſetníngur ſem hann haft hefdi med þeſſa útleggíngu, mætti fá framgáng. Og þar eg ſjálfur vildi enganuveginn henni undir ſtól ſtínga, edur láta hans fyrirtæki verda til forgefins, ſendi eg hana 1784 til yfirſkodunar þeim manni, ſem eg viſſi bædi vera í ſtandi til ad lagfæra, og líka mæla gott fyrir hana, ad hún þryckt yrdi, um hvad eg bad hann, en hann ſendi mer hana til

baka

baka, og ſkrifadi: ad þad mundi verda forgefins ad ætlaſt til, ſvo lángord bók, yrdi þá þryckt, þar mjøg erfidt gengi, ad ſá miklu ſmærri quer um uudir Preſſuna komid; hvad þegar eg fór ſídan ſjálfur betur ad adgjæta, ſá eg ei einúngis ad þetta var ſatt, heldur og, ad því meira, ſem koſtad yrdi uppá bókarinnar þryckíngu, því meira koſtadi hún ſídan ſjálf, ſvo fátækir og efnalitlir gjætu ei keypt hana; hefdu ſvo margir af þeim hennar engin not, ſem hellſt þirftu vid: þar hjá mun fleirum enn einum ſkuaſt, ad þó þeſſi áminſta bók, ſe yfrid gód og lærdóms-rík, ſe hún þó ei í allaun máta þjenanleg, fyrir minnis- og þeckingar-litla dauſíngja, einkum hvad hennar løgun og lengd ákrærir. 2.) Finnaſt margir of fáviſir og vankunnandi í ſínum kriſtinndóms efnum, og ei ſíſt í því, ſem vidvíkur rettilegum undirbúníngi og verdugri brúkun Altariſins Sacramentis, annadhvørt vegna þeſs, ad þeim hefir ei verid kennt þad, ſem ſkyldi, ellegar þó þad hafi gjørt verid, þá hafa þeir þó gleymt því aptur, ſem optlega er orſøk til margra hvørra ſáſtædis, eptir því, ſem reynſlan kjennt hefir. En ſvo ad þvílíkir mættu því betur nema og muna þad, ſem þeim ſvo mjøg árídur, hefi eg leitaſt vid ad koma þeim í því til hjálpar med eptirfylgjandi

stuttri undirvísun, í hverri eg hefi hjer og hvar brúkad til leidarvísirs bædi áminsta Dr. Fresenii bók, og annara lærdra og gudhræddra manna skrif. En, eins og þetta eru, med ødru fleiru, þær orsakir, sem hafa upphvatt mig til ad samantaka hana, svo er eg viss um, ad øll rettskickud Guds børn, muni taka þessa mína tilraun vel; þó hún kynni ei vera svo fullkomin og lærdómsrík, sem vitrir menn vildu hafa hana, ecki heldur med svo vøndudum stíl edur snildarlegu ordatiltæki, sem mælsku-menn kjósa, vona eg þeir eptir kjærleikans bodi vel virdi, hellst þegar þeir adgjæta, ad hún er eigjørd fyrir þá og þeirra líka, sem eru nógu vitrir, heldur fyrir sáfróda og minnis litla. Þess vegna hefi eg leitast vid, ad hafa hana, sem styttsta og einfaldasta, en þó nockurnveginn reglulega og skiljanlega. Minn einasti tilgángur med þessu litla og of ófullkomna verki, hefir verid ad leita Guds dírdar og sálnanna velferdar, því er mín hjartanleg ósk, ad þad mætti og þann ávøxt færa.

Hýtardal, þann 2 Janúarí 1798.

H. F.

## I. Kap.

### Hvad menn egi ad gjøra, ádur enn þeir medtaka Qvøldmáltídar Sacramentid.

§. 1.

Guds Andi bÿdur oss fyrir munn Postulans Páls 1 Cor. 11, 28. ad hvørr madur prófi sig siálfur, ádur enn hann gengur til Drottins Qvøldmáltídar Sacramentis, þad er: náqvæmlega ransaki og grandgjæfilega athugi, allt sitt ásigkomulag eptir Guds ordi. Hvad vér egum ad prófa, er þrennt: 1.) Angur og tregi fyrir syndirnar. 2.) Trúin á Kristum. 3.) Asetníngurinn til þess góda. En þared enginn finnur til ángurs vegna syndanna, nema hann viti, ad hans athøfn hafi synd verid, svo er þad fyrst ad sá, sem vill fá syndanna qvittun, og vera verdugur géstur vid Jesú qvøldmáltídar bord, þecki sinar syndir.

§. 2.

Hjá þeim, sem vill þeckja sínar syndir, hlýtur ad vera rétt þecking Guds heil. bodorda; því hvorninn kann nockurr ad þeckja syndina, nema hann þecki Guds vilja? en svo sem þessi kann ad þeckjast af bodordunum, svo kann madur og læra af þeim ad þeckja synd sína, ef hann ransakar sitt ásigkomulag eptir reglu lögmálsins, því þad er allt synd, sem frávíkur lögmálinu, hvort heldur med forsómun þess góda, edur illu athæfi; vilji madur því þeckja sínar syndir, er þad ei nóg ad hann einúngis uppgötvi stór-syndirnar, heldur hlýtur hann vandlega ad gefa gjætur ad tilhneigíngum sálarinnar, ad óstillíngu gedshræringanna, ad yfirsjón sinni í stjórnun skilníngarvitanna, og ad öllu sínu liferni innvortis og útvortis, og þá mun hann finna óteljandi syndir og ávirdíngar hjá sjálfum sér.

§. 3.

En eins og madur á náqvæmlega ad ransaka eptir Guds bodordum allt sitt liferni til hugrenninga, orda og

verka,

verka, hvad hann hafi gjört og ógjört látid í skyldu sinni vid Gud, sjálfann sig og náúngann, svo á hann og ad skoda atburd, tilgáng, ásigkomulag og stærd sinna synda, því hann kann ecki réttilega ad ydrast þeirra, þecki hann ei hvörsu stórar þær eru, né heldur alvarlega ásetja sér, ad láta af hvörri fyrir sig, adgæti hann ei hvörninn hann sé hrasadur, og hvad honum hafi gefid orsök og tækifæri, til ad drýgja syndina.

Þó allar syndir séu af sjálfum sér dóms verdar, gjöra þó ymisleg atvik ymsa synd annari stærri; til dæmis: syndgi menn vísvitandi, ellegar med ásettu rádi og þvert á móti samvitskunni, edur vegna einhvörra muna edur tilgángs; þvílíkar syndir géta ordid ad stór-syndum, þó sjálfar smáar séu, og þad, sem ecki er sjálfst synd, reiknast þá fyrir synd, þegar menn ætla þad muni vera Gudi á móti, en gjöra þad þó engu ad sídur. Þad eykur og á stærd syndanna, nær menn drýgja þær aptur og aptur, einkum eptir þad þeir hafa lofad bót og betrun, hvört loford þeir ítreka svo opt, sem þeir gánga til Guds bords, hvar

endur-

endurnýud verda skirnar heitin, hvor vèr mjøg illa rjúfum, ef hvad eptir annad verdum tryggrofar vid Gud, og þá verdur þad sidara verra hinu fyrra; því eins og þad má sýnast, ad menn þanninn gjøri leik ad styggja Gud, svo verda þessar syndir þýngri og orsaka meiri hegníngu, enn þær vèr ádur gjørdum; þó er þad allra verst, ef syndirnar verda hjá oss ad vana, svo vèr þeckjum þær ecki, og gjørum oss enga þánka um þær, heldur elskum þær og fegrum, sem syndlaust verk, hofum svo bædi sjálfir yndi og eptirlæti af þeim, líka lockum adra til þeirra, og þó oss sè fyrir slíku vari tekinn og vèr sèum áminntir ad hyggja betur ad hogum vorum, sláum vèr því kannskè í vind, og virdum einskis neinar bendíngar edur vidvaranir, heldur foroktum Guds ord, hans þénara og gódra vina áminníngar. Athugi madur nú afbrot sín, med þessum og odrum þeirra kríngumstædum, hlýtur hann og ad þeckja straffid, sem hann hefir med syndunum verdskuldad; og med því sèrhvor synd á móti logmálinu leidir ei eptir sig lèttara straff, enn bølfun, og sá sem

sem syndgar á móti einu bodordinu, er sekur vid øll, 5 Mós. b. 3, 26. 27. Jac. 2, 10. gétur enginn, hvørsu heidvirdur og óstraffanlegur, sem hann hefir lifad fyrir heiminum, álitid sig ødruvísi, enn fordæmdánn syndara, sem med øllum rétti ætti ad útskúfast, ef Gud vildi fara med hann eins og hann hefir tilunnid.

§. 4.

Þad er annars athugaverdt, ad eins og madur á ad komast til náqvæmrar og alvarlegrar þeckingar sinna synda, med því ad adgjæta náqvæmlega þau tíu bodord eptir þeirra margvíslegri krøfu, ransaka og bera saman vid þau sitt ásigkomulag, svo hlýtur hann í þessu áríd-andа verki taka sér vara fyrir þeirri svika-fullu sjálfs-elsku, og gá vel, ad hans hvikula hjarta ecki á tálar dragi, blindi og svæfi samvitskuna, med því ad affaka syndina og gjøra lítid úr henni. En skuli syndanna þecking vera lifandi, hljót-um vér naudsynlega ádur enn byrjum þetta ransak, og á medan vér erum ad framqvæma þad, ad andvarpa til Guds, og bidja hann af hjarta um nád hér til,

og

og ad hann vilji med sínum heilaga Anda, opna svo vor augu, ad vér megum rétti-lega álíta vor miklu afbrot, og komast til sannrar syndanna þeckíngar og vidur-kénníngar, því án hans hjálpar megnum vér eckért gott; hann er sá, sem verkar í oss bædi ad vilja og framqvæma, og þar hann líka þeckir best vor hjörtu, veit alla vora þánka, og sier alla voru vegu, og allt vort athæfi í ordum, vidmóti og verkum, höfum vér mestu þörf ad bidja med David: ransaka mig, Drottinn! og reyn mitt hjarta, prófa mig og reyn, hvornínn eg meina þad, og leid mig á þann eilífa veginn.

§. 5.

Vilji madur náqvæmlega prófa sitt ástand, ber honum ad samanbera allt sitt líferni án hræsni og yfirdrepskapar, vid Guds heilögu bodord, til dæmis: med því ad spyrja þanninn sjálfann sig, og þaruppá medtaka samvitskunnar skýlausu andsvor: Sú fyrri bodorda-tablan inni-heldur skipun um elskuna til Guds, og lotníngu fyrir honum: hefir þú eptir því fyrsta bodordi af hjarta dýrkad

þann

Þann eina og sanna Gud? hefir þú látid hans vilja stjórna þínum vilja? hefir þú látid á móti sjálfum þér til þess ad hlydnast honum? hefir þú lofad hann fyrir þad hann lét þig þeckja sig? hefir þú fordast allt þad íllt til orda, verka og hugrenninga, sem hann hefir bannad en ástundad ad gjora allt hvad hann hefir bodid af einlægu hjarta og fremsta megni? hefir þú gjert þetta af elsku til hans, eda af ótta fyrir straffinu? hefir þú verid ánægdur med allt, sem hann hefir látid fram vid þig koma? hefir þú þackad honum allt gott, er þú hefir hlotid? Hefir þú eptir því ødru bodordi borid súsa virdíngu fyrir Gudi og øllum gudlegum hlutum? hefir þú þenkt og talad um Gud med vareygd og lotníngu, en ei lagt hans nafn eda ord vid hégóma, ecki svarid ránglega ellegar óþarflega vid þad? hefir þú haft Guds ord um hønd, einúngis med þeim ásetníngi ad uppfrædast af því, og laga þitt líferni þar eptir? Hefir þú eptir því þridja bodordi helgad hvíldardaginn? hefir þú ecki framid á honum neitt óþarft eda syndsamlegt erfidi? hefir þú

 held-

heldur brúkad hann til ad heyra Guds ord, frædast og uppbyggjast af því, og til gudrækilegra hugrenninga? hefir þú verid svo uppbyggilegur fyrir adra, einkum á helgum dögum, sem þú áttir kost á? hefir þú sýnt ad þú elskir Gud yfir alla hluti fram? hefir þú elskad náúngann, sem sjálfann þig, sem þér er bodid í annari bodorda töblunni? Hefir þú eptir því fjórda bodordi verid þínum foreldrum og yfirbodurum hlýdinn? hefir þú verid sanngjarn vid þá, er þú varst settur yfir? hefir þú gjört hvorttveggja, einúngis af kjærleika og einlægni? Hefir þú eptir fimta bodordinu, ecki einúngis fordast ad gjöra þínum náúnga vísvitandi nockurn skada, heldur og stundad ad fría hann og vernda frá öllum háska og tjóni? hefir þú ei reidst honum ránglega eda orsakalaust? hefir þú enn sídur alid hatur til hans? hefir þú komist svo lángt ad vilja vel óvini þínum, og gjöra honum gott? Hefir þú eptir því sjötta bodordi varast bædi allt lauslátt og ósérlegt líferni til orda og verka, sem og ad fallast á vondt gjálífi, ósidsamt ordalag og tilhneigingar? hefir þú ford-

fórdast allt tækifæri til lauslætis og syndugs framferdis? hefir þú ástundad hreinlífi, bædi í ektaskap og fyrir utan hann? hefir þú eptir því sjöunda bodordi, fordast ad stela eda hafa nockud ránglega af nockrum? hefir þú í ordum og verkum stundad ad láta hvörn halda því eda fá þad honum med réttu bar? Hefir þú eptir áttunda bodordinu, aldrei borid falskann vitnisburd á móti þínum náúnga? ecki lastad hann né rægt af illgirni, þér til gamans, eda ödrum til vilja? ecki logid uppá hann illu, ecki þagad yfir hans mannkostum? ecki heldur tælt adra, sér til skada, til ad trúa ósønnu um hann? ecki hræsnad fyrir honum né dulid hann sinum ávirdíngum? ecki komid honum til ad hafa rángt álit á hlutunum, heldur leidrétt hans fáfrædi og villu, eptir bestu vitund, og elskad hann eins og sjálfann þig? Hefir þú eptir því níunda og tíunda bodordi yfirbugad alla laungun til ad ásælast þinn náúnga? hefir þú viljad efla hans velferd? hefir þú upphvatt adra til ad gjora skyldu sína, en ei freistad þeirra ellegar tælt þá til ad forsóma hana, en adhyllast þig? B 2 §. 6.

## §. 6.

Þegar vér höfum ransakad oss, sem náqvæmlegast eptir logmálinu, egum vér einninn eptir Evangelió ad prófa, hvort vér höfum sanna trú á Þrieinum Gudi? Hvort vér þeckjum hann réttilega, hans veru, vilja og velgjørnínga? hvort vér lifum eins og þeirri þeckíngu sambýdur, svosem sannarleg born vors himneska Fodurs, og höfum hans bodord oss jafnan fyrir augum? hvort vér færum oss réttilega í nyt allt þad góda, sem oss er afrekad og veitt fyrir Jesúm Kristum, höfum sannarlegt húngur og laungun eptir Guds nád vegna hans, og hjartanlegt trúnadar-traust til þeirrar fullnægju, er hann gjordi fyrir oss, leitum svo í honum einum, vorrar sáluhjálpar, og búum oss daglega til ad mæta fyrir hans dómstóli, þjónandi honum í réttlæti og heilagleika? hvort vér látum oss af heil. Anda stjórna til alls þess, sem Gudi er dírdlegt, en oss sáluhjálplegt.

## §. 7.

Ef vér þanninn eptir bodi Postulans Páls, 2 Cor. 13, 5. reynum oss sjálf-

siálfa, hvort vér erum rétt-trúadir, siáum vér hvort vor trú er daud eda lifandi: sé hún daud, þá er hún kraptalaus, og vottar sig ei í gódum verkum, af hvorium trúna má siá og þeckia, því segir Postulinn Jakob: sýn mér trú þína af verkunum; og eins og líkaminn er án andans daudur, svo er og trúin án verkanna daud, Jac. 2, 18. 26. en sé hún lifandi, finnum vér hennar verkanir og kénniteikn, á medal hvorra eru þessi hin hellstu: ad vér lifum lastvorum og gudrækilegum lifnadi, og logum sem best vort framferdi eptir Jesú lærdómi, fullvissir um ad hann sé oss af Gudi géfinn, til réttlætis, helgunar og endurlausnar; ad vér ecki einúngis fordumst alla stór-glæpi, heldur og allar, jafnvel smærstu yfirtrónir; ad vér svo fullkomlega vidurkénnum kristileg trúarbrogd, ad vér med þeim hreinsum vor hiortu, svo þau ecki fallist á vondar tilhneigíngar, heldur med skynseminnar stiórn, kosti kapps um, ad fá þær sigradar; ad vér fordumst af fremsta megni ad giora, tala eda hugsa neckud ósæmilegt, en ástundum ad láta vort liós lýsa svo

 fyr-

fyrir monnum, ad þeir sjái vor góðverk, og dyrki Foðurinn, sem er á himnum; ad vér berum þad traust til Guds, ad hann muni vegna síns Sonar Jesú fridþægíngar, fyrirgéfa oss allar vorar syndir, ef vér ydrumst þeirra af hjarta og einsetjum oss ad sporna vid þeim framvegis; ad vér sulltreystum því, ad hvad, sem oss ad hondum ber, komi frá Gudi, og mæti oss eptir hans rádstofun ellegar tillátsemi; ad vér séum svo fullvissir um sannleika Guds orda og vora skyldu ad hlýdnast þeim, ad vér sist látum oss vísvitandi afvega leida af nockrum tilteigíngum, heldur vitum ad meta og yfirvinna þær, sem ber. Þegar vér þanninn lifum, megum vér hafa þad orugga trúnadar-traust til Guds, ad hann láti oss allt þad gott í skaut falla, sem vér þegid gétum, ellegar oss er þénanlegt; en þar til þarf nærsta mikla athugasemd, ad vér med fullvissu gétum sagt: ad vér trúadir séum, og einkum ad vér ransokum grandgjæfilega bædi vora þeckíngu á Guds ordi, og vora ástundun ad laga vorn lifnad eptir því. Sá einn er rétt-trúadur, sem af fremsta megni

og

og hjarta stundar kristlegar dygdir, en þó hann þori ecki ætíd fullkomlega ad tileinka sér Krists forþénustu, og sé stundum uggandi um Guds hegníngu yfir afbrotum sínum, getur hann hast veika en sanna trú, sem Gudi er líka þócknanleg; lisi þarámót nockurr gagnstædt því, er hann veit og þeckir rétt ad vera, sá ofþýngir æ meir og meir samvitsku sinni, og hefir eins dauda og gagnslausa trú fyrir sig ad bera.

§. 8.

Þegar þú, kristin manneskja! grandsjæfilega athugar þitt framferdi, muntú fljótt sjá, hvörsu tídt og opt þú hefir bretid þinn skírnar-sáttmála, og Guds heilögu bodord, já, finna ad þínar syndir eru óteljanlegar. En ad þú hér um gángir í skarpasta reikníng vid sjálfann þig, er til þess, ad þú kunnir þar med því betur fá þeckt þínar syndir, og undir eins alvarlega audmýkt þig fyrir Gudi þegar þú sjer þína hættu og yfirhángandi straff, af því þú hefir uppeant, og til reidi reitt svo mikla Hátign, sem er svo heilög og réttlát, ad hún ei lídur

Þad vonda óstraffad, en þar hjá svo almáttug ad hún getur tortýnt bædi sálu og lífi í helvíti, Matth. 10, 28. Þessi íhugan kann ei annad enn uppvekja hjá þér ángur og trega, sem þó fæst einúngis med bænum; því sonn hrigd er verkan heil. Anda, sem hana lagar eptir sinni eilífu speki á þann hátt, sem þorf gjörist, eptir syndarans andlegu og náttúrlegu ásigkomulagi; þess vegna eru ángur og tregi ecki hjá ollum jofn, en á þó ad vera alvarlegt og hræsnislaust, skuli ydranin vera réttskickud, og Gudi þóckanleg: því segir David: sæll er sá madur í hvørs hugarfari engin flærd er, Ps. 32, 2. Þesshattar ángur og trega krefur Drottinn, segjandi: snúid ydur til mín af ollu hjarta med fostum, med grátí, med qveini, rífid ydar hjortu, en ecki ydar klædi, Joel 2, 12. 13. En þó ad heil. Andi uppveki þetta ángur, kann madur þó í vilju tilliti auka þad, med því ad yfirvega, og sér fyrir sjónir setja bædi sínar morgu og stóru syndir, med þeirra forþéntu straffi, og Guds stóru elsku og miskunsemi; þetta hvorttveggja má sjá, ef madur réttilega fyrir sér virdir

ir Kristi píni og dauda, því vorar syndir vóru þad, sem orsökudu honum svo megn qvalrædi og negldu hann á tréd, og hans elska var þad, sem knúdi hann til ad pínast og deyja þeirra vegna oss til sáluhjálpar.

§. 9.

Ekki er nóg, þegar þú vilt ydrast og fá þinna synda fyrirgéfníngu, ad þú einúngis ángrist af straffinu, ellegar þeirri skömm og skada, sem þú veitst þig ad hafa bakad þér med syndunum, því þá kémur þitt ángur mest af elskunni, sem þú hefir á sjálfum þér, en ei af elskunni til Guds; en ef þú fyrir alvöru yfirvegar Guds elsku til þín, og þar med fær hjá þér uppvakid kjærleikann til hans, þá verdur þitt ángur alvarlegra, réttskickad og Gudi þócknanlegt, og þá hryggist þú mest af því ad hafa styggt hann, jafnvel þó þú hefdir þér einskis straffs ad vænta. Þar fyrir, viljir þú fá af stad komid hjá þér sannarlegu ángri og trega, hlýtur fyrst elskan til Guds hjá þér ad uppvekjast, med yfirvegun hans mörgu nádar-ríku velgjörnínga vid þig

og medal annara fleiri þess, ad hann hingad til hefir sparad þig, og ei burtkippt þér í þínum syndum. Gjættu ad því, hvorsu optlega og stórlega þú hefir styggt Gud, og uppegnt hans réttlátu reidi, já, kannské leigid lengi í einhvorri vísvitandi synd, og þar med forþénad glötunina, þó hefir Gud híngad til sparad þig, en hvørr hefir verid orsök þar til? hans gjædskurik þolinmædi, og elskufullt lánglundar-ged, sem ei vildi ad þú skyldir fyrirfarast. Sé þitt hjarta ei steini hardara, kann þad ei annad enn vikna svo vid íhugun þessa eina ómetanlega velgjörníngs, ad þú komist ad raun um, hvørja eymd og hjartans ángur þad gjöri ad yfirgéfa Drottinn, Jer. 2, 16. hvad miklu framar má þad þá særa þig, og auka þér ángur, þegar þú grandgæfilega yfirvegar alla adra Guds margfoldu velgjörnínga þér veitta, og hvørsu illa þú hefir þá endurgoldid og þér í nyt fært; en þó þú sjáir þá þinn mikla óverdugleika, og þykist ei géta úthellt svo mörgum og beiskum tárum, vegna þinna synda, sem þú vildir edur skyldir, skalt þú samt ei ofmjög efast um, hvört

þín

þin ydran sé sonn edur ei, því sé hún hræsnislaus, og framkomi af elskunni til Guds, þócknast hún Gudi vel. Og svo sem heil. Andi verkar þetta hugar-ángur, en afskamtar þad eptir manneskjunnar ásigkomulagi, svo lætur hann ei einúngis finna til svo mikils ángurs, sem Davíd og adrir fleiri reynt hafa, heldur lætur hann þad optlega vera hjá sumum minna. Þegar madur er á lægstu hrigdar-troppu, finnur hann ad sonnu til engrar stór-ángistar, og nærri-gángandi qvalar, samt líkar honum ei vid siálfann sig; hann finnur til þess hvorsu máttlítill og daufur hann sé til alls góds, ángrast þar af, hefir sorgbitid og audmjúkt hjarta fyrir Gudi og hatar einlæglega allar syndir; en hvört þetta ángur er meira edur minna, kann ei þar med ad forþénast syndanna fyrirgéfning, því enginn gétur med því eda odru afplánad sínar syndir, edur forþénad Guds nád, heldur er Krists fridþægingar-offur sú einasta orsok og medal til ad fá fyrirgéfning vorra synda, enn þótt þetta ángur þurfi til ad odlast syndanna fyrirgéfníngu.

§. 10.

## §. 10.

Pared Kristſ fridþægingar-offur er einaſta medalid til ad ødlaſt ſyndanna fyrirgéfníngu, á og má madur ecki gráta ſvo ſyndir ſinar, ad hann ørvænti og ſegi med Cain; mín ſynd er ſtærri enn hún megi fyrirgéfaſt, 1 Móſ. b. 4, 13. heldur útheimtiſt af honum elſkufullt trúnadar-trauſt til Jeſú Kriſts, og ad madur leiti ſér einúngis huggunar í hans forþénuſtu, vonandi ſtadfaſtlega, ad verda hans vegna ſáluhólpinn, ſem er hofud-póſturinn í øllu ydrunar-verkinu, því án þeſs kynni hvorki ſyndarinnar þeckíng, hugar-ángrid, né ſá beſti áſetníngur nockud ad hjálpa; því ſegir og ſjálfur Kriſtur: enginn kémſt til Fodurſins nema fyrir mig, Jóh. 14, 6. og Póſtulinn Pétur: þar er ecki ſáluhjálp í neinum ødrum, og eckért annad nafn undir himninum oſs mønnunum géfid, Poſt. g. b. 4, 12. þeſs vegna ſkaltú, kriſtin manneſkja! þér til huggunar líta í trúnni uppá hann, ſem Gud ſkickadi til nádar-ſtóls, Róm. 3, 25. Jeſúm Kriſt, þad lambid Guds, ſem bar heimſins

ſynd-

syndir, Jóh. 1, 29. og fulltrúa um náðuga bænheyrslu, innilega og alvarlega biðja Guð, að þínar syndir megi, vegna hans pínu og dauða, þér fyrirgéfast, að Guð fyrir hann vilji taka þig í sátt og vingun, því svo sem Krists friðþægingar offur er einasti grundvöllurinn til að oðlast náð, svo er og náðin það einasta augnamið, sem trú ydrandi syndara hefir, og það einasta, sem þúnga þjáð hjarta lángar eptir, hvorrar eptirlaungunar áſigkomulag Frelsarinn framsetur, sem húngur og þorsta, Matth. 5, 6. segjandi: sælir eru þeir, sem húngra og þyrsta eptir Réttlætinu; því líka, sem þann húngrada og þyrsta lángar ecki svo innilega eptir nockru í allri verøldinni, sem eptir fædu og dryck, svo lángar ydrandi syndara ecki svo hjartanlega eptir nockru, sem því réttlæti, er Kristur hefir afrekad. Þó einhvorr vildi yfirtala nockurs sárlega húngradann eda þyrstann, ad halda sér frá mat og dryck, med þeim skilmála: ad hann skyldi fá nægd af gulli og sylfri, þá mundi sjást hvad alvarleg hans laungun væri, því heldur kysi hann sér bita brauds, og lítinn svala-dryck

enn audæfi heimsins, sem ei mega honum án matar vidhalda. Og þó einhvorr yfirtala vildi ydrandi syndara til ad hætta andvarpinu eptir Kristó, en sækjast eptir heims þessa hégóma, svo hann njóta mætti hans forgengilegu audæfa, mundi sjást, hvad sterkt, hvad innilegt hans húngur og þorsti væri eptir því sanna Réttlæti; hann mundi segja: hvad gagnar mér, þó eg ávinni allann heiminn, en lídi tjón á sálu minni?

Ef ad þú, sannydrandi sála! hefir svo innilega og hjartanlega eptirlangngun eptir Kristó, máttú fyrir víst vita, og í trúnni reida þig uppá, ad þú sannarlega ødlast Guds náð, og þinna synda fyrirgéfníngu, jafnvel þó þú verid hefdir mesti syndari í veraldinni; en virdist þér trú þín veik, þarftu þó ecki ad örvænta þér Guds nádar, heldur mátt hugga þig þar vid, ad Gud vill ei bráfadann reyr í sundurbrjóta, né litt-logandi horqveik útslockva, Es. 42, 3. veik trú tileinkar sér eins vel Krists forþénustu, sem hin sterka; Gud hefir géfid þér trúna, og sæi hann þad naudsynlégt, mundi hann géfa þér hana enn

sterk-

sterkari; hann hefir afskamtad þér þennann mælir, lát þér hann því nægja: þad svar fèck Postulinn Páll ad heyra, þá Drottinn sagdi til hans: lát þér nægiast mína náð, því minn kraptur er í breiskum máttugur, 2 Cor. 12, 9.

§. 11.

Ef þú hefir alvarlegt ángur vegna syndanna, og sanna trú á Jesú Kristó, þá hefir þú og einlægann ásetníng til lifnadarins betrunar, sem er ávoxtur trúarinnar; en hvar þessi ásetníngur er ecki, þar er engin sonn heldur daud trú, þar kann ei heldur vera sannarlegt ángur, því hvorninn kann nockurr ad hafa sannarlegt ángur af syndinni, þegar hann vill ecki af henni láta? þad getur ei skéd. Þar fyrir er hjá þeim, sem ecki hefir þennann ásetníng engin sonn heldur hræsnis ydran. Þessi einlægi ásetníngur er þar í innifalinn, ad madur alvarlega ásetji sér, ad afleggja æ meir og meir allar syndir og syndsamlegar gi ndir, en rètta sig í ollu eptir Guds vilja, og sé þessi ásetníngur rèttskickadur, auglýsir hann sig fljótt í verkunum edur ytri

 hlýdni;

hlÿdni; en hvar sem syndin enn þá drottnar, þar gêtur ei verid gott áform, því syndin drottnar þar, hvar enn finnst elska, yndæli og vísvitandi samþycki, jafnvel þó einúngis væri í einni synd; sé ásetníngurinn svo alvarlegur, sem vera ber, þá ályktar madur einlæglega med sjálfum sér, ad hann vilji ydulega hata syndina, afleggja æ meir og meir enn vidlodandi ávirdíngar; þad er hans einlægur ásetníngur aldrei þadàn í frá ad þjóna synd og heimsins hégóma, jafnvel þó hann ætti ad missa stundlegann heidur og heimsins audæfi, já, sitt egid líf; hann kann ad sønnu ecki ad lofa ad lifa oldúngis án bresta, því þad er honum í þessu lifi ómøgulegt, og einginn hefir í þessu lifi, ad Kristi einum fráteknum, svo heilagur fundist, ad hann hafi gêtad þad haldid, en hann hefir samt fylliliega ályktad med sjálfum sér, upp frá þessu og æ ad hafa sína lystíngu til Guds og hans heil. ords, og laga þar eptir allann sinn lifnad, ad afhenda Jesú sálu sína og líkama til stadfastrar eignar, ad gêfa heil. Anda rúm í sínu hjarta, og hans nádar verkun-

unt.

tun. Nú þótt allir hlutir séu fastlega og órjúfanlega innibundnir í þessum einlæga ásetníngi, reidir þollík manneskja sig eckért á sína egin krapta í nockrum hlut, því hún hefir komist ad raun um sinn eymdarhag og veikleika í yfirbótinni. Þess vegna er þess manns ásetníngur, ecki svo mjøg heitid, sem hann vinnur Gudi, sem miklu framar stadfastlega ad halda Guds náð, ad mæna til hennar sínum trúar augum, andvarpa eptir hjálp og bidja audmjúklega um styrk og adstod á þennann edur vidlíkann hátt: Drottinn! hjálpa þú mér; Drottinn! lát mig ei falla aptur, eg sleppi þér ecki fyrr enn þú hefir blessad mig med ánægjanlegum krapti, til ad gjøra allt gott, sem eg í þínu nafni hefi nú ásett mér.

§ 12.

Allt of margir, munu því midur finnast! sem þykjast ydrandi, og meina ad þeirra syndir séu þeim fyrirgéfnar, þó þeir hafi eckért betrunar áform, og draga svó sjálfa sig á tálar. Þeir draga allir sjálfa sig á tálar, sem vid svo meinta

yfirbót, hafa enn Þá vondt áform, ad halda eptirleidis med yndi og elsku á-fram í syndinni og af ásettu fremja hana. Þeir draga og allir sjálfa sig á tálar, sem hafna ad sønnu nockrum syndum, en ei øllum; líka svo Þeir, sem hafa góð-ann ásetníng um stuttann tíma, ad Þeir einúngis nockra daga fyrir og eptir Alt-aris-gaunguna vilja lifa vel, en syndga sídan eins eptir sem ádur. Þesshátt-ar fólk hatar ecki syndina, heldur ein-úngis straffid, sem rekur eptir Þeim ad leita fyrirgéfníngar, og slíkir vilja hafa Krist einúngis fyrir sinn ypparsta Prest, sem skuli afplána Þeirra syndir, en ecki fyrir sinn Spámann, sem kénni Þeim, ecki heldur fyrir sinn Kóng, sem yfir Þeim drottni, og ecki sem eptirdæmi, hvørju Þeir fylgja skuli. Þeir eru Guds óvinir, Þar Þeir æ meir og meir mót-Þróanlega brjóta hans logmál, en vilja ei vita af Því ad segja, ad hann muni Þar fyrir kalla Þá fyrir dóminn og end-urgjalda Þeim eptir Þeirra verkum.

§. 13.

En ef ad Þú, o madur! ásetur Þér fyrir alvøru, ad hafna allri synd,

og

og hana afleggja, hlýtur þú ad fordast alla þá orsök og tækifæri, sem þú hefir í þínu undangångandi prófi fundid, ad hafi leidt og lockad þig til syndanna, því þú hlýtur ad útbrynja þig á móti sérhvorri synd, og reka alla þína sálar óvini út; enn ad þeim útreknum mátt ei láta þína sálu og hjarta standa sem í eydi, því þá vilja þeir eptir Krists ordum, Lúc. 11. skjótt aptur hverfa, og verdur þá hid sídara verra hinu fyrra; því hlýtur þú med heitri og alvarlegri bæn, ad innbjóda þángad heil. Anda med sinni nád, og bidja hann innplanta þar allskyns kristilegar dygdir, hvorjar þú átt ad kosta kapps um ad fá hjá þér uppvakid, svo sem til dæmis ad taka: audmýktina, med því ad yfirvega þínar mörgu og miklu syndir; trúna, med því ad minnast Guds fyrirheita, sem hann hefir gefid þeim trúudu; elskuna, med því ad þenkja um hans velgjördir; kjærleikann til náúngans, med því ad hugsa um Kristi pínu, sem hann leid fyrir oss, þá vér vórum hans óvinir; en einkanlega útheimtist af þér, og sérhvorjum af oss, ef vér viljum fá vorra

synda-qvittun, og verduglega gánga til Guds bords, ad vér forlátum þeim, sem brotid hafa í móti oss, og ecki einúngis þad, heldur og ad vér elskum þá; somuleidis ef vér höfum á einhvorn hátt misgjort vid nockurn ad vér ydrandi vid þad konnumst, leitum forlíkunar og bætum honum þad, ef vér getum, þvi án þessa kunnum vér ecki ad komast í sátt vid Gud, edur gjora nockud honum þócknanlegt, hvad augljóst er af þessari Frelsarans skipun, Matth. 5, 23: Þegar þú offrar þinni gáfu á Altarid, og þér kémur þar til hugar, þad þinn bródir hafi nockud á móti þér, þá láttú þar þína gáfu fyrir Altarinu, og gack ádur ad sætta þig vid bródur þinn, kom svo til ad offra þinni gáfu.

## §. 14.

Þegar syndarinn þanninn þeckir sínar syndir, ángrast af þeim, leitar sér einúngis hüggunar í Krists forþénustu, og reidir sig í trúnni uppá þad fridþægíngar offur, sem þessi hans blessadi Borgunar-madur hefir útlagt fyrir hans syndir, vid hvorjar hann vill nú feginn

qvitt-

qvittur verda, einsetur sér því alvarlega af þeim ad láta, þá flýr hann med þeim fortapada syninum heim aptur til fodurshúsanna, játar audmjúklega sín mörgu afbrot og syndir, segjandi: Fadir! eg hefi syndgad í himininn og fyrir þér, því er eg ecki verdugur ad kallast þinn sonur, Lúc. 15, 21; hann þeckir sinn eiginn óverdugleika, hvörsu hann af sjálfum sér til sé í engu gódu gyldi og kannast vid, ad hann hafi ei annad forþénad enn bölvun og fyrirdæmíngu, leitandi því einúngis nádar í Jesú forþénustu-trausti, og lætur sín úrrædi vera ad bidja og audmýkja sig med blygdun og ángri í djúpustu audmýkt og hjartans lotníngu undir Guds voldugu hönd, upphrópandi med Davíd: æ! gacktú ecki í dóm vid þræl þinn, því fyrir þér er enginn lifandi manna réttlátur, Ps. 143, 2. En med því hann kann ei svo grandgjæfilega, sem hann vildi, ad muna og þeckja allar sínar yfirtrodslur, afbidur hann almennilega og yfir höfud sínar huldu og duldu syndir, segjandi enn aptur med Davíd: hvörr kann ad skilja hvad opt hann fellur, fyrirgéf þú mér minn

minn heimuglegann brest, Ps. 19, 13. Þessi vidurkénníng og afbeidsla er sannlega ecki innifalin í einberu munnflapri af hvorju hjartad eckért veit, ecki heldur í því einu ad lesa skriftargánginn fyrir sidasakir, ecki heldur í alvörulausum andvörpunum, sem strax eru á enda, heldur er hún svo innileg, svo hjartanleg, svo alvarleg, sem bæn þess saka-manns, sem þegar fengid hefir þúngann hegníngardóm. Þegar þú, syndugur madur! svo sann-ydrandi játar og afbidur þínar syndir, þá fær þú þar uppá ad heyra þetta gledirika andsvar: vertú hughraustur sonur, þínar syndir eru þér fyrirgéfnar, Matth 9, 2. Drottinn hefir burttekid þína synd, þú skallt ecki deyja, 2 Sam. 12, 13. O! hvörsu mjög má þín sál hér af gledjast og fagna, eda hvad kann framar ad hugga og fridstilla þína ángrudu sál og sorgbitid hjarta, samt auka þér djörfúng til ad innflýja til Guds nádar, líka þolinmædi í hvorskyns mótlæti og þjáníngum, og loksins hughreysti til ad taka óqvidinn á móti daudanum! þegar þú ert viss ordinn um ad þínar syndir eru þér fyrirgéfnar,

er

er þeirra ſtraff burttekid, og þetta er þad, ſem Guds Þénari kunngjörir þér, þegar hann í Guds nafni og í krapti hans fyrirheita, tilſegir þér þinna ſynda qvittun og fyrirgéfníngu, ſvo þú mátt þá fagnandi undirtaka med David Pſ. 32.: ſælir eru þeir, hvörjum yfirtrodſlurnar eru fyrirgéfnar, þeir, hvörra ſyndir eru huldar, ſæll er ſá madur hvörjum Drottinn tilreiknar ecki ſyndina!

§ 15.

Engin er fáſinna meiri, enn ad halda, ad ſyndirnar verdi oſs fyrirgéfnar, af því ad Preſturinn leggur oſs hönd í höfud í ſkrifta-ſtólnum og bodar oſs þeirra qvittun, því í Guds eins en ecki Preſtſins valdi er ad fyrirgéfa ſyndirnar; Gud einn, en ecki Preſturinn þeckir allt vort innra áſigkomulag, öll fylſni vors hjarta, og hvört vor ydran og trú er alvarleg, ſönn og lifandi, ellegar einber hræſni og yfirdrepſkapur; hvört vér höfum nockurn betrunar áſetníng, ellegar önum þánkalauſt inn ad Drottins altari fyrir ſidaſakir, máſké med áſetníngi ad fram-

halda

halda í syndunum, og hvörninn má þá bodun synda-qvittunar afreka þvílíkum fyrirgéfningu hjá Gudi, sem ecki svífast ad framkoma fyrir hans alskygna augslit med hræsni, og þanninn spotta og vanvirda hans heil. ord og fyrirheit, um nád og miskun, sem einúngis er lofud öllum sannydrandi tòpudum sonum, sem med alvarlegu ángri og áformi ad vanda lífernid af fremsta megni, snúa heim aptur til Födurhúsanna? þessum, en ei skinhelgum hræsnurum, sem auka synd á synd ofan med því ad gjöra engann greinarmun á Drottins líkama, tilheyrir sú syndaqvittan, er Presturinn bodar, og, sem hefir eckért annad ad þýda, enn ad sérhvör sannydrandi og trúnd manneskja, sem med ásetníngi ad láta sér ætíd framfara í því góda, en sporna vid illu, medtekur Jesú Krists líkama og blód í minningu hans pínu og dauda fyrir oss, og til syndanna fyrirgéfningar, megi eptir Guds mildu fyrirheitum vera þarum fullviss, ad hennar syndir verdi af sjálfum Gudi fyrir Jesú forþénustu fyrirgéfnar. Svo sem þessi bodun af Prestsins munni má því hughreysta

og

og styrkja í trúnni ángradann og sanniðrandi syndara, svo er hún andvaralausum hræsnurum ecki einúngis gagnlaus heldur og skélfileg, ef þetta sitt hræsnis afbrot yfirvega.

## II. Kap.

### Hvad menn egi ad gjøra vid Krists Qvøldmáltídar Bord.

§. 1.

Þad er vísdómsfull og nádarsamleg tillátsemi af Gudi, ad hann lætur mennina, sem vér sjáum og tolum vid um áſigkomulag vorrar sálar, og ordid, sem vér heyrum, gjøra oss fullvissa um vora synda fyrirgéfníngu, þó er þad enn meiri nád, ad oss aumum syndurum, sem ei hofdum annad betra forþénad enn ad burtspyrnast af hans fórsker, og útrekast frá hans augliti, er hid vingjarnlegasta og alvarlegasta bodid af vorum Frelsara ad hans bordi, til ad eta hans líkama og drecka hans blód, til innsiglis og stadfestíngar um allra vorra synda fyrirgéfníngu. O! hvílík nád, hvílikur

kjærleiki er þetta? hvørt mun ei þvílík náð mega hjá oſs uppvekja ſanna auð-mýkt, øruggt trúnaðar-trauſt, hjartanlegann fögnuð, brennandi kjærleika, innilega bæn og eilífulit þacklæti? já, að víſu!

§. 2.

Þegar þú, kriſtinn maður! ſetſt að Jeſú borði þá gjör það með ſannri auðmýkt og hræſnislauſri viðurkénníngu þins eiginn óverðugleika, um hvørn þú mátt þá vera með rökum ſannfærður, af yfirvegun þinna mörgu og miklu ſynda, hvörjar þér ættu ſvo til hugar koma, þegar þú ſkalt eta Kriſts ens kroſsfeſta líkama og drecka hans úthellta blóð, að þú af alvöru viðkanniſt, hvörſu óverðugur þú ert til að neyta þeſſarar lífſins ptugu og dýrmætu ſálarfæðu, þar þú hefir drýgt það, ſem olli þínum Frelſara ſárrar pínu, og varð orſök til hans dauða. Hans qvalarar kroſsfeſtu hann og ſmánuðu, en þú hefir hann með glæpafullu líferni optlega ſmánað og mödgað; þeir kroſsfeſtu hann, því þeir þecktu hann ecki, en þá hefir bæði þeckt hann að vera Drottinn

dýrð-

dírdarinnar, og ad hann hefir reynst þér nádugur og miskunsamur Gud, þó hefir þú engu sídur reitt hann til reidi og vanvirdt, med margfoldum syndum. Ef ad þú þetta réttilega yfirvegar, kann ei annad enn uppvekjast hjá þér sönn audmiukt, hjartans ángur og alvarlegt hatur og vidbjódur á syndunum.

§. 3.

En þú skalt ecki einúngis minnast Krists pínu og dauda til ad uppvekja hjá þér sanna audmiukt, og vidurkenníngu þíns óverdugleika, heldur og til ad styrkja þína trú um Guds nád og syndanna fyrirgéfníngu, hvíad þú átt ad álíta þann krossfesta Jesúm, sem offur fyrir þínar syndir til ad stilla Guds reidi, en afreka þér hans nád og vingun, og bidja Gud ad hann vilji medtaka þá fullnægju borgun, sem hans elskulegur Sonur hefir útlagt fyrir þig, og fyrir hans skuld fyrirgéfa þér allar þínar syndir, en taka þig í sátt; máttu þá fullkomlega trúa því, og oruggt reida þig þar á, ad þetta vissulega skédur; hvar um sjálfur Jesús gjörir þig full-

vissann, er hann segir: takid og etid, pad er minn líkami: dreckid, pad er mitt blód, sem fyrir ydur úthelliſt til fyrirgéfníngar syndanna; hvar med hann géfur tilkynna, ad vér odlumst gjørvallann ríkdóm af Því góda, sem hann hefir oss afrekad, Því Þad er allt eins og vor elskulegi Frelsari segdi: takid Þad, etid og dreckid, Þad er mitt hold og blód, og í Því Þér etid og dreckid Þetta, njótid undir eins allra Þeirra gjæda og velgjørnínga, sem eg hefi ydur til handa keypt, med Því ad úthella mínu blódi; en hvílík, hversu stór og margfold eru Þessi gjædi? Þessi syndanna fyrirgéfníng, Þad réttlæti, sem fyrir Gudi gyldir, fridur vid Gud, hlutdeild og von um arfsoku í Guds ríki, kraptur til ad lifa heilogu líferni, huggun í freistíngum og Þjáníngum, sigur yfir vorum sálar óvinum, fognudur í heil. Anda, líf og sáluhjálp, í stuttu máli: oss géfst ásamt med Krists líkama og blódi ómetanleg nád og heill af hans óendanlegu forÞénustu. Þegar Þú allt Þetta réttilega fyrir Þér virdir, og undir eins Þína miklu Þorf, getur ei hjá Því farid, ad hjá Þér upp-

orſiſt,

orfist þá, því innilegri girnd og eptir-
lángan edur húngur og þorsti, til að
njóta þessara gjæða, því heldur, sem þú
veitst þína þörf, og finnur til þíns óverd-
ugleika, svo þú munt þá finna þig hafa
alla orsök til að þenkja og segja þann-
inn: o! minn ástúdlegasti Jesú! hvorsu
mikil og surdanleg er þín náð, hvorsu
grunnlaus þín elska, að þú ei eingángis
gafst þig í qvalir og krossins dauða
fyrir oss auma syndara, heldur og gafst
oss þinn líkama og blóð, til að metta
þar með og dryckja vorar húngradar og
þyrstar sálir: mína sálu lángar innilega
til að verda njótandi þessarar lífkropt-
ugu fædu, því líka, sem hjörturinn þyrstur
sækir að ferskum vatni, svo kallar mín
sála til þín, og hana þyrstir eptir þér.
En hvað er eg þess, að þú skulir virda
mig svo mikils, og veita mér svo mikla
náð, hvorra eg af sjálfum mér til er
óverdugur; eg kém því ecki til að njóta
þessara ómetanlegu gjæða sakir míns
eginn verdugleika, heldur eptir þínu bodi,
í trausti þinnar forþénustu og verdskulds-
unar, sem gjörir mig verdugann þinna
fyrirheita, þaredð þú hefir lofað að reka

engann þann frá þér, sem til þín kém-
ur, heldur endurnæra þá erfidandi og
þúnga þjádu. Æ! Herra Jesú! lát mig
nú þessa njótandi verda, styrk mig og
hjálpa mér, gjör mig nú verdugann,
hæfilegann og þér þócknanlegann gést
vid þitt bord, helga nú, hreinsa og blessa
mig, látt þetta mitt áform vel luckast,
og til blessunar ríkra nota verda.

§. 4.

Vid þessa yfirvegun mun uppvek-
jast hjá þér hjartanlegur fögnudur; því
sannlega má þitt hjarta fagna og undr-
ast þegar þú fyrir þér virdir þitt und-
ansarid ástand, og öll þau gjædi, sem
þér hér veitast; þú hefir þá ei orsök til
ad vera qvídandi edur óttasleginn, held-
ur rétt sem leika af andlegum fögnudi
og innvortis sálar-kjæti, yfir þessum dýr-
mæta fésjód, þú mátt þá med öllum
rétti segja: nú sæ eg ad sjá og smacka
hvörsu sætur og ljúfur Drottinn er, Ps.
34, 9. sem tilreidir matbord fyrir minni
sálu tgegn óvinum mínum Ps. 32, 5.
og gésur henni til nautnar sinn allra
heilagasta líkama og blód; o! hvad stór

veg-

vegsemd, hvad furdanleg náð, hvad ó-
metanlegur fognudur, er það, sem mér
nú veitist. Jesús hefir ei einúngis géf-
id mér sína náð, heldur og einninn sjálf-
ann sig, þessvegna hefi eg nú minn Lausn-
ara, med allri hans elsku og miskun, hann
er minn, og ég em hans, eckért skal ock-
ur adskilja; hann mettar mig med sín-
um líkama og dryckjar mig med sínu
dýrmæta blódi, til ad gjöra mig full-
vissann um sína náð, syndanna fyrir-
géfníngu og eilífa sáluhjálp, og veita
mér krapt til ad deyja frá syndunum,
lifa andlegu lífi, til þess ad verda njót-
andi þess eilífa; réttlæti, líf, kraptur,
huggun, fridur og fognudur og allt það,
sem Jesús hefir med sínum dauda af-
rekad er mitt, mér er þad allt skénkt
og géfid, einninn sigur yfir mínum ó-
vinum, hvörja eg þarf ei ad hrædast,
því daudinn er uppsvelgdur í sigur og
syndin afmád, svo eg þarf ei fyrir þeim
ad qvída, heldur má af ædstum hjart-
ans fognudi sigri hrósandi segja: daudi!
hvar er þinn broddur, gröf! hvar er
þinn sigur, Gudi sé þackir, sem oss
hefir sigurinn géfid fyrir Drottinn vorn

 Jes-

Jesúm Krist, 1 Cor. 15, 55. 57. Er Gud med oss, hvorr kann þá vera móti oss, hvorr ed ei þyrmdi sínum eingétnum Syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla; hvornium skyldi hann þá ei géfa oss alla hluti med honum? hvorr vill ásaka Guds útvalda? Gud er hér, sem réttlætir, Kristur hér, sem dáid hefir, já, miklu heldur sá, sem upp aptur er vaxinn, hvorr ad er til hægri handar Gudi, og bidur fyrir oss, Róm 8, 33. 34. Jesús hefir ei einúngis géfid mér sína nád, heldur og einninn sjálfann sig, þess vegna hefi eg og odlast minn Lausnara med allri hans elsku og miskunsemi. Vor trúfasti sálna vinur veit vel hvorsu hrædd og huglítil hans kjærustu börn eru opt og tídum vid hans bord, og ad þau á stundum gánga til þess med jafn meiri hrædslu og skjálfta, enn fognudi, hann þeckir þeirra dupt og veikleika og þess vegna ávarpar hann þau svo víngjarnlega: takid og etid, dreckid hér af allir; sem vildi hann svo til þeirra tala: því eiud þér svo hræddir? óttist þó ecki! þér leitid ad mér, sem er Jesús ydar Frelsari; eg er sá, sem dáinn er fyrir

ydur, og hefi af elsku til ydar látid mér blæda til ólífis; eg hefi gjört ydur heimbod, eg er nú ecki ydar reidi Dómari; heldur ydar miskunandi Frelsari og trúlyndur Borgunar-madur, eg veit ydar eymd, og ad þér erud þurfandi minnar endurnæríngar vegna ydar breiskleika; þar fyrir leggid ad eins fyrir ydur, og etid þad góda, takid og dreckid þad, sem eg gef ydur.

§. 5.

Því stærri nád og elsku-merki, sem Jesús hefir hér med sýnt, því framar kanntú, ef ad þú endurminnist hans pínu og dauda, og situr ad hans bordi í háverdugu Kvøldmáltídar Sacramenti, ad sjá hans heitu elsku til þín. Hann tilsetti þessa máltíd á þeim sama tíma, sem hann var í djúpustu-nidurlægíngu, þegar hann var sendur, ecki til ad fordæma heimin, heldur ad heimurinn skyldi frelsast fyrir hann, Jóh. 3, 17. Hann innsetti hana á þeirri nátt, sem hann var svikinn, þá hans þúnga pína byrjadist, og hann var reidubúinn til ad forlíka fyrir allar veraldarinnar syndir,

og sýndi þar með sérleg merki sinnar miskunar-ríku elsku til vor syndugra manna, því eins og hans heita elska dró hann í smánarlegastann krossins dauda, svo vildi hann og géfa sínum börnum eptir sig ríkann erfda-hluta, svo ad þau skyldu ei odruvísi til hans húgsa, enn med inni-legustu elsku; edur hvørr skyldi ei vilja elska hann aptur á móti, sem oss hefir fyrri svo heitt elskad, og oss svo undr-unarlega mikla nád audsýnt? Þó lét Jesú elska sig hvad hellst í ljósi, þá hann lét sig á krossinn negla, og sér þar til ólífis blæda fyrir oss, því segir Jó-hannes: þar af þeckjum vér kjærleikann, ad hann hefir géfid sitt líf út fyrir oss, 1 Jóh. 3, 16. Enginn kjærleiki kann stærri ad vera heldur enn þessi, ad vitni sjálfs Frelsarans, er hann segir: enginn hefir meiri kjærleika, enn þennann, ad hann lætur sitt líf fyrir sína vini, Jóh. 15, 13. Engu ad sídur hafdi hann þó enn stærri kjærleika, því hann dó ecki einúngis, heldur dó smánarlegasta dauda; hann dó ei fyrir sína vini, heldur sína óvini. Svo ad vér skyldum þessu aldrei gleyma, hefir Jesús innsett þessa kjærleiks-

mál-

máltíd í háverdugu Qvoldmáltídar Sacramenti, og bodid ad halda hana í sína minníng, segjandi: gjørid þad í mína minníng. Þad er næsta eptirtektavert, ad hann itrekar tvísvar þessa skipun í innsetníngar ordunum, hvarmed hann vill ávísa oss ad vér eigum einkum ad brúka þá heil. Qvoldmáltíd til ad minnast Krists pínu og dauda, og þeirra velgjorninga, sem hann þar med hefir oss afrekad, svo ad vér lærum ad þeckja bædi stærd og vidurstygd vorra synda, vegna hvorra Jesús hlaut ad lída allskyns mestu og sárustu innvortis og útvortis qvalir, til ad frelsa oss frá Guds reidi og eilífum qvolum, líka einninn ysirgnæfanlegann Jesú kjærleika, ad hann vildi í vorn stad lída, og gésa sitt líf út fyrir oss, til ad afreka og gésa oss lífid. O! þann surdanlega kjærleika! o! þad dýrmæta og ómetanlega lausnargjald, hvar med reidin er stillt, en nádinn afrekud, syndin qvitt, en daudinn í sigur uppsvelgdur; þvi Jesús, sem bar vorar syndir, og er fyrir oss dáinn, er med sitt egid blód inngenginn í þad allra helgasta, og útvegadi eilífa endurlausn,

Ebr.

Ebr. 9, svo Gud er nú ei framar, sem reidur Dómari, heldur náðugur Gud og fridþægdur Fadir, en vér hans born, og þar vér erum hans born, þá erum vér hans erfingjar og samarfar Krists, svo vér þurfum ei ad óttast dóminn né eilífdina, þar vér erum af Gudi álitnir í Kristó svo réttlátir, sem vér hefdum aldrei syndgad, því hann hefir þann, sem af engri synd vissi, ad synd gjort fyrir oss, svo vér yrdum í honum þad réttlæti, sem fyrir Gudi gyldir, 2 Cor. 5; þegar þú, sann=ydrandi manneskja! allt þetta réttilega fyrir þér virdir, má þad auka mikla rósemi þinni sálu, frid þinni samvitsku og huggun og elskufullt þacklæti þínu hjarta, já, þessi hugleidíng Jesú brennheitu elsku, kann ei annars, kristinn madur! enn uppvekja hjá þér heita elsku til hans, svo þú elskir hann aptur á mót, sem þig hefir elskad fyrri, Jóh. 4, 19. kappkosta því, sem mest ad upptendra þennann elsku eld í þínu hjarta, svo þú kunnir ad eptirfylgja þíns Frelsara dæmi, og sért reidubúinn til ad yfirgéfa alla hluti, og láta fyrr sjálft lífid, enn ad þú yfirgéfir hann,

ed=

edur brjótir á móti honum, sem þig hefir svo heitt elskad og svo dýru verdi keypt; áset þér því alvarlega, aldrei ad önýta fyrir þér hans lausnar-gjald, og þá dýrmætu velgjörninga, sem hann hefir þér þar med afrekad, aldrei ad adhyllast hans óvini, og aldrei herbergja syndina, edur láta hana hjá þér drottna, heldur mótstanda syndunum og þær afleggja, einkum þær, sem þú ert mest hneigdur til, og svo í krapti Kristi krossfestingar, krossfesta þitt hold med þess girndum og tilhneigingum.

## §. 6.

En þar þú ert ecki mégnugur um þetta af sjálfum þér, þá bid þinn krossfesta Jesúm: ad hann vilji þig hér til styrkja med krapti sins dauda, og máttu þá vera-viss um náduga bænheyrslu, því þegar þér verdur meddeildur Krists líkami, þá er þad, sem þinn Jesús tali á þennann edur vidlíkann hátt: elskulega barn! taktu minn líkama þér til eignar, því fyrst hann var einusinni géfinn til offurs fyrir þig, þá skal hann nú líka verda þín eign, eins og sú fæda, sem þú

etur, er þín egin; taktú hann til ad verda hluttakandi í þeim krapti, sem eg hefi med mínum dauda útvegad; tak hann, og medtak undir eins øll þau sáluhjálplegu gjædi, sem eg hefi þér med mínum dauda afrekad. Og þegar þér verdur meddeilt Jesú blód, þá er eins og hann segi til þin: vegna þess eg hefi einusinni kostad svo miklu blódi uppá þig, og því fyrir þig úthellt, skal þad nú vera þitt egid, eins og sá drykkur, sem þú dreckur, verdur þinn, þú skalt nú verda hluttakandi í allri þeirri nád, krapti, gáfum og gódum hlutum, sem eg hefi keypt þér til handa med minni blóds úthellingu, dauda og gjørvallri forþénustu. En svo sem þú, kristin manneskja! skalt eflaust trúa ad þetta muni ské; svo mátt þú og þanninn andvarpa, þegar þú medtekur Krists líkama: **Drottinn Jesú! eptir þínu bodi og fyrirheiti tek eg þinn líkama, sem géfinn var í daudann fyrir mig til fyrirgéfningar minna synda, hann styrki mig, helgi mig og vidhaldi mér í sinni nád til eilífs lífs! Amen;** og nær þú medtekur hann blessada kalek, sem er sameining Jesú blóds: **Drottinn**

ínn Jesú! eptir þínu bodi og fyrir-
heiti tek eg og dreck þitt heil. blód,
sem fyrir mig er úthellt, þad hreinsi
mig af øllum daudum verkum, til ad
þjóna þér, þad styrki mig, helgi og
vidhaldi mér í sannri trú til þess
eilífa lífsins! Amen.

§. 7.

Sídan ber þér strax, sem þú hefir
medtekid þessa há-dýrmætu sálar-fædu,
í djúpustu audmýkt og andakt ad offra
Drottni elsku-fullu þacklæti, og ákalla
hann um hjálp og styrk, til ad halda
þad heit, sem þú hefir gjørt, einsetjandi
þér af allri alvøru ad þjóna þínum
Gudi í réttlæti og heilagleika alla þína
líf-daga.

## III. Kap.

### Hvad madur á ad gjøra eptir þad hann hefir medtekid Qvøld-máltidar Sacramentid.

§. 1.

Þeir kunna kannské margir ad finnast,
sem ecki einúngis hafa eingin not af.

Altarisins Sacramenti, heldur eta og drecka sjálfum sér dóm, 1 Cor. 11. af þvi þeir forsóma sina skyldu, bædi ádur og á medan þeir brúka þad; þeir láta sér nægja, ef þeir einn edur fáa daga ádur sýna á sér útvortis skickanlegt liferni, og hafa þann dag, sem þeir eru til skripta og altaris, lesid eina edur fleiri bænir, þeir gánga til skriptastólsins, játa þar sin margfoldu afbrot, bidja Prestinn ad boda sér syndanna qvittun, en lofa jafnframt bót og betran, þó hjartad viti litid af þessu ad segja, medtaka svo þar uppá sacramentid, og hafi þeir sidan lesid eina bæn, þykjast þeir hafa vel aflokid skyldu sinni, láta því ydrunar-verkinu þarmed lokid.

Svo kunna þeir og ad finnast, sem ad sönnu gjæta betur skyldu sinnar, bædi ádur og á medan þeir medtaka Sacramentid, en hafa samt eingin not þar af, vegna þess þeir vanrækja skyldu sina framvegis, og hafa innann skamms eptir þad þeir vóru til Guds bords, og þessari þeirra Guds dýrkun var lokid, gleymt því gjorda betrunar lofordi og þá er þeirra ydran og gódi ásetning-

fingur einninn á enda, þeim fer þá ei ólíkt og húndinum, sem gengur til gomlu spýjunnar, edur svíninu, sem veltir sér aptur í sama saur, 2 Pét. 2, 22. Því þá hlaupa þeir til gomlu vana syndanna, hvorra qvittun þeir vísvitandi fyrir sér ónýta, og verda eins holdlega og veraldlega sinnadir og þeir ádur vóru, svo sem til dæmis ad taka: seu þeir hneigdir til ágirndar, þykir þeim kannské ecki mikid fyrir ad stela edur ad minsta kósti, rædur aura og maura elskan svo miklu vid þá, ad þeir láta sina hellstu og mestu umhyggju vera, hvorninn þeir kunni á einhvorn hátt ábataſt, en luckist þeim þad ei, edur missi þeir nockud, fellur þetta svo þúngt, eins og væri þad skorid af þeirra hjarta; þeir láta sér þá framar annt um ad safna gótsi, enn um Guds nád, þeir eru miklu hugsúkari um þad tímannlega, enn hid andlega góda; þeir géta hæglega lagt þad á samvitskuna, ad svíkja náúngann og gjöra honum leynt og ljóst, á ymislegann hátt rángt til, bædi í ordum og verkum, láta fátæka og naudstadda hjálparlausa frá sér fara, og jafnvel ásælast

þá. Séu þeir af náttúrunni hneigðir til sællífis og vellystínga, ydka þeir og stunda slíkt, en kiæra sig lítið um, þó þeir þar med spilli sinni heilsu, edur venji líkamann til óþols og dugnaðarleysis í því, sem hann á að giöra, ellegar sói út þeim efnum, sem Guð hefir gèfið til að hjálpa naudstoddum, uppala börn, v. s. frv. þeim þykir vænt um að vera í vondum solli, og brúka hunsar syndugar skémtanir; þeir vilja það heiti svo, að þeir óttist og elski Guð, ef að þeir á vissum tímum forsómi ei að heyra og lesa Guðs orð, edur ydka bænir og saungva, en þó undir eins þess á milli marga vísvitandi synd, eptir því sem hvörr þeirra er lyndtur og hellst hneigður til, en lifa ógudlega til orða og verka; falli þeim nockurt mótlæti til, verda þeir duglausir og gjörast strax möglunarsamir, med því og fleira móti verdur þeirra hjarta oldúngis fráhverst Gudi. En þú mátt ei þanninn breyta, kristin manneskja! heldur svo sem þú átt vel að gjæta þinnar skyldu, bædi ádur og á medan þú medtekur sacramentið, svo áttu og þar eptir vel að varðveita hana.

§. 2.

§. 2.

Þar fyrir þegar þú ert úr Guds húsi heim kominn í þitt egid, edur til þíns heimilis, áttú ei strax ad gêfa þig til veraldlegra þánka og sýslana, enn sídur til hégómlegra eda syndsamlegra lystínga og skémtana, heldur halda áfram þinni umgengni med Gudi enn á ný, offra honum innilegu þacklæti og hjartanlegri lofgjörd, bædi fyrir alla hans födurlega velgjörnínga, og einkum fyrir þá stóru nád og þau ómetanlegu gjædi, sem hann hefir veitt þér á þeim degi, bidja hann alvarlega ad styrkja þig med krapti heil. Anda, til ad halda þau heit og lofanir, sem þú hefir nú gjört; þú átt einninn sjálfur ei einúngis ad einsetja þér, heldur og strax byrja ad undirþvínga og dempa þínar vana syndir, og vöndu náttúrlegu tilhneigíngar, og þær afleggja, líka brúka allann daginn til heil. hugsana, orda og verka, og enda hann med lassaung, bæn og þackargjörd.

§. 3.

Þegar þín stétt og kallan þad útkrefur máttú ad vísu gêfa þig til þinna

veraldlegu sýslana, en þó undir eins jafnan athuga, ad þú hefir annad viktugra vërk fyrir hendi, þvi hvad stodar þad manninn, þó hann ávinni allann heiminn, enn lídi tjón á sálu sinni, Matth. 16, 26. Þar fyrir, hvor hellst, sem þin útvortis sýslan er, gleym aldrei þinni sálar erfidi, edur þeirri umhyggju, sem þú átt ad bera fyrir henni; lát þér aldrei úr minni lída lofordid, sem þú hefir gjört Gudi, og ádur enn þú gjörir nockurn hlut, einkum þegar heimur og þitt egid hold og blód vilja locka þig til synda, gjæt þá ad, hvort þad edur þad sé leyfilegt, hvort þú munir á engann hátt þar med styggja Gud, og hvorsu þúngt hefndar-straff þad muni yfir þig leida, ef þú visvitandi brýtur þad loford, sem þú hefir gjört honum.

## §. 4.

Svo ad þinum sálar óvinum takist ecki audveldlega ad leida þig afvëga, skaltú ydugleg stjórna þinu hjarta, ad syndsamlegar hugrenningar og girndir drottni ecki yfir þvi, og nádarverkaninnar þar med ecki hindrist; þú skalt einn-

inn stjórna þínum augum og eyrum, svo eckért íllt komist um hvorugar þessar dyr innk hjartad, hvar med andans innvortis verk verdur nidurbrotid; þú skalt og stjórna þinni túngu, svo ad þú med saurugum og syndsamlegum ordum hryggir ecki Guds Anda. Eph. 4, 29. og hjartad ei leidist afvega, Jac. 1, 26. Þú skalt lika taka vara á þinni umgengni vid adra menn, í því ad halda þér frá íllu, og yfirgéfa syndsamlega veraldarinnar vináttu, sem er fiandskapur gégn Gudi, Jac. 4, 4. og þó þú neydist til ad umgángast vonda menn, strid samt stödugur gégn því ílla, og gior þig ecki hluttakara í annarlegum syndum, já, þú skalt vaka yfir öllu þínu líferni, ad þad ecki saurgist med nockurri vísvitandi synd; þú átt og ad géfa gaum og rúm gudlegum nádarverkunum, og athuga einkanlega þinn vitjunar-tíma, þá Gud uppvekur þig á ný annadhvort til bænar edur yfirvegunar Guds orda, ellegar til ad strída gégn syndinni, edur og til ad æfa kjærleikans verk, og fleira þess háttar. En kunnir þú á einhvorn hátt, vegna þíns dofinleika edur óforsjálni ad

yfir-

yfirbugast af freistingum, átt þú ei að láta við svo búið standa né gèfast upp, heldur taka fyrir þig nýja djörfung, og flýja til Jesú, biðjandi auðmjúklega og af hjarta fyrirgéfningar á þessari yfirsjón og óforsjálni, og undir eins um náð til meiri árvekni og stöðugleika framvegis. Þessi árvekni er hin nauðsynlegasta til yfirbótar, og hvorr, sem ekki tekur vara á þessu, heldur gèfur syndinni stað og rúm, gètur ómögulega framhaldið í sínu yðrunar-verki, því hlýtur maður með jafnaði að vaka og biðja, og ástunda að varðveita trú og góða samvitsku fyrir Guði og mönnum.

## §. 5.

Eins og þú hlýtur að bera umhyggju fyrir þinni eilífu sálar velferð, viljir þú fá haldið þau heit og lofanir, sem þú hefir gjört Guði, og vera í náð hjá honum, svo á hún ekki einúngis að vara einn eður nokkra daga, heldur yðuglega alla þína lífdaga, því lítið gagnar þér það, þó þú gjörir það nokkra stund, ef þú hættir því aptur og gengur síðan eptir heimsins og holdsins vilja og á-

heggjunum, hvad sjálfur Drottinn vottar, segjandi: nær sem réttlátur gjörir ránglega, þá mun eckért stoda hann ad hann hefir réttlátur verid, Jer. 33, 12. hér á heima þad, sem Guds Andi segir, fyrir munn Postulans Péturs í 2 pist. 2,20.21.:"svo framt þeir, sem med vidurkénningu vors Drottins og Frelsara Jesú Krists, hafa skilid sig vid endemi heimsins, láta sig á ný flækja þar í og sigrast, er þvílíkra sídara ordid verra hinu fyrra, því betra væri þeim aldrei ad hafa þeckt rétta veginn, enn ad þeir, eptir þad þeir þecktu hann, snúi aptur frá þeim heilaga lærdómi, hvorn þeir medtekid hofdu." Stundir þú ad halda þitt loford um vissann tíma en géfir þad sídan frá þér, sýnir þú þar med ad þér er ei ómøgulegt ad hafa gát á þér, og þitt fráfall skédur ecki af breiskleika edur vanvitsku, heldur af vísvitandi hyrduleysi edur ásettu rádi, sem ei kann annad enn yfir þig leida Guds óbærilega reidi og hefndar-straff, ef ad þú ei í tíma snýr þér til hans, og betrar þitt rád. En vit fyrir víst, ad því optar og lengur, sem þú þanninn gabbar

Gud-

Gud med þínu betrunar loforði, því torveldari verður þér síðan yðranin, því meiri reikníngurinn og því þýngra straffið. Að Gud hefir híngað til auðsýnt þér þolinmæði, og verið þér svo náðugur, að fyrirgéfa þér, syndirnar, ætti að uppvørfa þig til því meiri alvørugéfni og árvekni, en ei að gjøra þig andvaralausari og óvísnari til að syndga. En ef þú í trausti Guðs miskunsemdar leikur þér að syndunum, eins og væri þér ætíð viss fyrirgéfníng, þá forsmáir þú og vanbrúkar Guðs náð gégn sjálfum þér, og átt ei víst, hvørt þú gétur yðrast síðar meir, og fengið fyrirgéfníng, því eins og Gud er náðugur, er hann og réttlátur og strángur hegnari óguðlegs athæfis, og lætur ei að sér hæða, Gal. 6, 7.

§. 6.

Að margur lætur sig af heims og holds ginníngum yfirbuga, og hættir allri vareygð í líferni, kémur opt og tíðum af því, að honum þykir skynsöm stjórn sjálfs síns í fyrstu þúng og torveld. En sért þú trúr og haldir áfram með hana,

verð-

verdur hún æ léttari og léttari, þángad til þú ert kominn í vana med ad lifa gudrækilegu og réttkristnu líferni, svo þér mun þá virdast, ad þú sért ordinn svo leikinn og ferdugur í því, ad þú getir ei annad enn lifad vel og gudrækilega, því sannarlega kémur sá ordugleiki, sem monnum finnst vid ydkun gudhrædslunnar, einúngis af því, ad þeim er tamara ad lifa odruvísi. Lát þér því umhugad ad taka sterkann vara á sjálfum þér og fordast allt tækifæri til freistínga, svo þú fáir fordast af ásetníngi ad styggja þinn Gud, og þar med brjóta þín heit.

§. 7.

Ecki heimtist þó af þér, ad þú lifir syndlaust, því þad er ómogulegt, hvorsu vel sem þú vandar þig, þar ed enginn er svo hreinn og heilagur, ad hann hafi ei daglega orsök til ad segja med Páli: þad góda sem eg vil, gjöri eg ecki, Róm. 7, 19. og bidja med David: gack ecki í dóm vid þræl þinn, því fyrir þér er enginn lifandi manna réttlátur, Ps. 143, 2. En þad er ann-

ad ad syndga af illgirni, og annad af breiskleika. Sá sem syndgar af illgirni, tekur sér enganu vara fyrir syndinni, heldur fremur hana af ásettu rádi og vilja, annadhvort opinberlega edur heimuglega, og vill gjarnann halda áfram í því; en sá sem þetta gjörir, er syndarinnar þræll og Guds óvinur; odruvísi er háttad breiskleikans syndum, sem finnast hjá Guds börnum en reiknast þeim ecki til straffs né fordæmingar, því þar er engin fordæming á þeim, sem eru í Kristó Jesú, sem ecki gánga eptir holdinu heldur eptir andanum, Róm. 8, 1. Guds börn hafa ad vísu synd, því Jóhannes segir: ef vér segjum: vér höfum ecki synd, svíkjum vér sjálfa oss, og sannleikurinn er ecki í oss, 1 Jóh. 1, 8. og Postulinn Páll vottar: ad syndin lodi vid oss og gjöri lata, áminnir þess vegna til ad afleggja hana, Eb. 12, 1. en þau haga sér lángtum odruvísi enn þeir yfirunarlausu. Stundum qvikna vondar girndir og tilhneigíngar í þeirra hjarta, en undir eins og þau verda þess vör, strída þau þar á móti, bidja og andvarpa og hætta ei fyrr enn þau fá sigurinn hönd-

höndlad, samþyckja ecki hid vonda, og gjöra enganu heimuglegann sáttmála vid syndina, miklu sídur óska, ad þau fái tækifæri til ad fremja hana. Í þeirra útvortis hegdun og líferni, vidmóti, ordum og verkum, finnast ad vísu margar ávirdíngar, annadhvort af vanvitsku edur brádrædi, en þau hafa ecki hugsad sig um þær fyrirfram, ecki ályktad med sjálfum sér ad fremja lostinn, og strax, sem þau sjá, ad þau hafi ávirdíng hendt, vilja þau síst halda áfram í því, ellegar fegra hid illa, sem er skéd, heldur verda þau af því ángurvær í hjarta, bidja Gud innilega fyrirgéfníngar þará og verda því forsjálari og gætnari framvegis, varast syndsamlegt tækifæri en gjörast stödugliynd í því góda, þó tækifæri til sönnu syndar géfist á ný, svo ad þeim skuli ecki verda sú yfirsjón framar og yfirvinna svo syndina. En þeir ydrunarlausu skémta sér þvert á móti med syndum, eins og vinum.

§. 8.

Þar ed þú átt ad brúka daglega árvekni, varast syndir af fremsta megni

og stunda ad láta þér ecki aptur fara, heldur æ meir og meir fram í dygd og kristinndómi; þá er naudsynlegt ad þú, ad hvørs dags qvøldi, gángir í skarpann reikníng vid þig, hvørninn þú hafir gjætt skyldu þinnar, vid Gud, sjálfann þig og náúngann, og kappkostir ad fá bætt med sannri ydrun, hvad þér hefir yfirsjest; finnir þú, ad þú gjørist tregur og dofinn í þínum kristinndómi, en þig lángi þó eptir andlegri krapta styrkíngu og endurnæríngu, brúka þá þad heilaga Qvøldmáltídar Sacrament med ádursøgdum hætti.

## §. 9.

En vogir þú þad ei, sökum þíns óverdugleika, þar ed þú þeckir og finnur hjá þér, svo margfaldar yfirsjónir og bodorda brot, þá skaltú ecki láta þad aptra þér frá því, því þér verdur ei þar med borgid, heldur verdur þín sök þýngri, já, þig hendir þá ný

yfir-

ysirsjón, verri enn sú fyrri; þó mátt þú vera viss um, ad Jesús, þinn trúfasti Frelsari, þeckir ei einúngis þinn breiskleika, heldur hefir medaumkun med honum, Ebr. 4, 17. og eins og ad heilir þurfa ecki læknarans vid, heldur þeir sem sjúkir eru, Matth. 9, 12.; svo er þessi þecking og vidurkénníng þíns óverdugleika vist teikn ad þú þeckir og finnur til þíns andlega sjúkdóms, og ert einn í þeirra tolu, hvorjum Jesús hefir bodid og skipad ad brúka þessa lífkroptugu fædu, þeim til trúar-styrkíngar og andlegrar heilsubótar. En efist þú um, hvort þú ad undanfornu hafir verid verdugur gestur vid Jesú Kvoldmáltídar bord, hefir þú vist verid þad, ef þú 1.) hafdir hræsnislausa girnd og eptirlaungun þar til, og bjóst þig undir, sem best þú máttir; og síd-

 an

an 2.) hefir innilega eptirlaungun og alvarlega ástundun Gudi ad þócknast, og halda hans bodord; en þó þér takist þad ei svo fullkomlega, sem þú vildir, vegna þíns breiskleika, máttú samt vera viss um, ad Gud tekur hjá þér viljann fyrir verkid, og ad Jesú fullkomlegleiki bætir allann þinn ófullkomlegleika, á medan þú lifir í sameiníngu vid hann og heldur þér fast vid hann í trúnni, svo þú ert þá sannarlegt Guds barn og erfíngi himnaríkis; hvors loksins úr bítum ad bera, oss öllum af nád sinni veiti almáttugur Gud, fyrir Sonarins forþénustu; hvörjum ásamt Födurnum og heilögum Anda, sé lof og dírd frá eilífd til eilífdar! Amen.

---

